# S a m n i n g u r

milli, Hans konúngl. dønsku Hátignar, Etatsráds og Justitiarii á Íslandi, Magnúsar Stephensen, og Hans konúngl. dønsku Hátignar, Amtmanns i Vestur-Amti tjedrar Eyar, Stepháns Stephensen, af annari Hálfu, og Hávelborins Alexanders Jones, Capitains á Hans bretlendsku Hátignar Strids-skipi the Talbot, og Samuel Phelps, frá Lunduna-Stad, Esqvirs, af hinni Hálfu.

---

## 1. Grein.

Allar Auglýsingar, Tilskipanir, Bodord, etc. etc., géfnar af Hra. Jorgen Jorgensen, eptir þad hann kom hér vid Land, skulu vera afmádar, og ad øllu leiti sem eckert og ógyldar, frá því Augnabliki þessi Samningur er undirskrifadur.

## 2. Grein.

Landsins fyrrverandi Stjórn, skal fullkomlega vera aptur innstiptud, og hún á Hendur falin nefndum Justitiaríus á Íslandi, og nefndum Amtmanni í Vestur-Amti Íslands, bádum Íslendíngum, sem eru ad Metordum nærstir þeim seinasta (Íslands) Stiptamtmanni Greifa Trampe.

## 3. Grein.

Allir Embættismenn, undir því danska Veldi, hafa Frelsi til ad taka aptur vid Embættum þeirra.

## 4. Grein.

Landstjórnin skal ábyrgjast, ad øllum enskum Undirsátum sé óhult med þeim Eigum þeirra, sem nú eru hér, edur seinna kynnu híngad ad flytjast, og ad øll Afbrot, Þjófnadur og persónulegar Árásir, framin móti enskum Undirsátum, edur Eigum þeirra, verdi strøffud jafnstrángt og eptir sømu Løgum, eins og Eigurnar hefdu verid Innfæddra.

5. Grein.

## 5. Grein.

Engin Varnar-virki mega verda bygd (og sá Skans, sem nú er hjá Reykjavík skal verda nidurbrotinn), engin Stridsmakt høfdud á Eyunni, edur Landid á nockurn Hátt til Varnar búid, ne vopnad.

## 6. Grein.

Allir Embættismenn edur adrar Persónur, hvørt heldur þeir eru vopnadir edur verjulausir, sem vid seinustu Adburdi hafa haft Hlutdeild med Hra. Jørgen Jørgensen, skulu framvegis vera frá þeirra Størfum settir, en Persónur þeirra og Eignir skulu í øllu Tilliti (hvørjir helst, og af hvørri helst Þjód þeir eru), vera álitnir og verndadir jafnt ødrum Mønnum edur Innfæddum.

Samníngurinn milli Greifa Trampe og Capitain Nott, dagsettur 16da nærstlidins Junii Mánadar, skal standa í fullu Gyldi, og auglýsast, án Tafar, yfir allt Land, ásamt þessum Samníngi.

## 7. Grein.

Øll Høndlunarhús, sem eru lokud í Landi þessu, skulu strax verda opnud, og Íslands Kaupmønnum leyft ad framhalda Kaupverdslun þeirra, eins og fyrri.

## 8. Grein.

Allar danskar Eigur og Landsins Peníngar, skulu verda afhendtir aptur til baka.

**Til Stadfestingar undir vorum Høndum og Signetum, Reykjavíik, þann 22an August. 1809.**

Magnús Stephensen. Stephán Stephensen. Alexander Jones. Samuel Phelps.

Konúngl. danskur Etatsrád og Justitiarius á Íslandi.
(L. S.)

Konúngl. Amtmadur yfir Vestur-Amtinu á Íslandi.
(L. S.)

Capitainn á Hans bretlendsku Hátignar Strids-skipi the Talbot.
(L. S.)

(L. S.)

Þessi Utlegging er samhljóda Adalriti Samníngsins, sem skrásettur er í ensku Túngumáli, vitna Reykjavík, þann 22ann August 1809.

M. Stephensen. S. Stephensen.